## Framhald um Christindómsins útbreiðslu og verkun.

Vér vitum, að svo sem Gydínga þjóðin er sú eldsta þjóð í heiminum, svo eru og hennar forlög einhver hin sterkasta og hersýniligasta roksemd til sanninda christiligra trúarbragða. Því hvorsu þreifanligur Guðs kraptur sýnir sig ecki á viðmaktheldi afspreingis þjóðar þessarar, að það — miðt i þess sundurtvístrun um allan heim — er þó ecki fyrir laungu annaðhvort útdauðt, eður svo samanblandað orðið öðrum þjóðum, að það ei framar frá þeim aðgreint verði, miðt í því svo margar þjóðir, frá fyrri öldum — eingan-veiginn þó svo gamlar sem Gydínga-eður Ísraels-þjóðin — og þar á ofan í fyrstu miklu mektugri enn hún og fólkríkari, hafa hreint tapað sér í tíðarinnar framgángi, og eru sumar aldeilis afmáðar, sumar samanblandaðar svo öðrum þjóðum, að þær, undir öllu öðru nafni, trúarbrögðum og siðum, eru orðnar hreint ókénniligar,

svo nøfn þeirra og tilvera er hvørgi ad finna nema í heimsins árbókum og fornaldar søgum? En svo sem Guds kraptur sýnir sig berliga á þessarar þjódar stakliga vidhaldi, svo sannast og þarmed krøptugliga spádómar heil. Ritníngar um forløg hennar, ad hún mundi vid lídi verda, til sídursta heimsins alda, til eins vitnis um óbrygdanligleika, svo vel Guds hótana sem hans fyrirheita.

Nú svo sem þjód þessi er ad sønnu æruverdug fyrir elli sína, og markverdug fyrir Guds sannleika sakir, svo er hún og elskuverdug, bædi fyrir þad, ad Christindómurinn á til hennar ætt sína ad rekja, þar hann, álitinn sem trúarbrøgd, er útsprottinn af og bygdur á Gydínganna trúarbrøgdum, eptir gamla testamentinu; og þó einkum fyrir þad, ad sá háblessadi høfundur Christindómsins — Jesús Christur — var einn af þeirrar þjódar kyni, sem og allir hans postular, er fyrstir løgdu þann hans grundvøll, med kénníngum sínum og skrifum, yfir hvørn vér nu byggjum. Nú svo sem sannleiki Guds straffs-hótana rættur er á þjód þessari, gégnum full 18 hundrud ára, sídan þeir útskúfudu Jesú og hans lærdómi, svo mun og svo ecki sídur sannleiki fyrirheita hans, um ad hann vilji þessa, svo leíngi strøffudu þjód, loksins aptur til nádar taka, óyggj-

janliga rætast á sínum tíma. Er þad þessvegna einhver hin háleitasta skylda vor Christinna, ad bidja Israels Gud, Fødur Drottins vors Jesú Christi, af øllu hjarta, ad flýta þeim tíma, sem mest má, á hvørjum hann ákvárdad hefur, ad skýlan skuli takast frá þessa forblindada fólks augum, svo þad þeckt fái þann rétta Messíam, sem spádómarnir umtala, allareidu auglýstan vera í persónu Jesú af Nazareth, og gési sig undir hans nádar veldis-spýru, til ad verda hluttakandi þeirrar blessunar af hans híngadkomu, sem þeir í rauninni vóru fyrst bornir til ad njóta. Til þessarar skyldu sinnar hafa og svo ýmsar christnar þjódir á þessum døgum fundid, þar stofnud eru vída Féløg, sem þad augnamid hafa, med ordi, verki og miklum kostnadi, ad leitast vid ad umvenda Gydíngum, ei sídur enn heidíngjum og Tyrkjum, og hafa þeir adburdir ecki ávaxtarlausir ordid, heldur géfa bestu vonir um umvendun margra, fyrir Gudsnád, med tímanum. Ad vísu hefdu ádur, á undanførnum øldum, gefist nockur dæmi til umvendunar einstakra manneskja af Gydínga þjódinni, sem af alvøru hafa játad því og trúad, ad Jesús af Nazareth, væri sá sanni Messías, og einginn annar; en þó eru nú, sídan Missións- Bibliu- og Smárita-Félog hófust í

þeiminum, miklu meiri brøgd ordin ad því, enn ádur, og ein merkilig hræríng hefur auglýst sig í hjørtum margra Ísraels manna, sem sýnist fyrirbodi þess, ad þeirra endurlausn taki ad nálægjast. O, gefi eylífur Gud ad von sú og ósk rætist? Nú þó þad ysrid æskiligt væri, ad minir kjæru Landsmenn feingid gjætu nockra greiniliga vitneskju hérum (hvar um nógar sannferdugar skýrslur eru til í ødrum túngum) þá bannar efnaskortur vors litla Félags ad géta um sínn til hlýtar úr því bætt; þó vil eg fyrst leida hér fyrir sjónir tvær merkiligar sannar søgur, um uppvakningu nockurra úngra manneskja af þjód þessari; og med því Guds andi sjálfur — án allrar mannligrar tilstudlunar — auglýsti hér úti slíkar nádarverkanir, þá eru søgur þessar bædi einn hátalandi vottur um Christindómsins gudómliga uppruna, og þarnæst glediligur forbodi þess, hvad Gud vill vid þjód þessa ad lyktum gjøra; og meiga þessvegna álítast sem lítill frumgródi þeirrar sídar væntanligu Evangelii alblómgunar medal nidja þess gamla Guds fólks edur Abrahams afkomenda.

Sú fyrri Sagan er þessi:

Ad heil. Andi verki og svo, fyrir Guds krapt, hjá Børnum, eptirlaungun eptir Drottni Jesú Christó og hans nád, þar til skal fylgjandi sann-

ferdug fráſaga ſýna ƃrækuſtu rokſemd. Arid 1761 deydi í Berlínarborg Gydingur einn, ſem med konu ſinni átti 3 dætur, hvorra hin elſta var 12; ſú onnur 10, og ſú þridja 8 ára gomul. Þegar ſtúlkur þeſſar voru ſvo ſtálpadar ordnar, ad þær, án annara tilſjónar, geingid gátu úti á gotunum, komuſt þær í kunníngſkap vid Chriſtin born nockur, hver í ſinni frómu einfeldni ſogdu þeim frá: ad Guds ſonur væri af himnum kominn híngad á jordu nidur, ad hann fyrſt verid hefdi eitt lítid barn; ad hann í umſkurninni feingid hefdi nafnid Jeſus; ad hann ſídan uppaliſt hefdi i Nazareth hjá fóſtra ſínum Jóſep og Maríu módur ſinni; ad þeſſi Jeſús, þegar hann, ſvo ſem manneſkja, var á ſínu 30ta ári, haſi látid ſkýraſt, og tekid ſídan opinberliga ad kénna monnum, hvornig þeir ættu ſáluhólpnir ad verda; ad hann framid hefdi morg kraptaverk, tekid uppá ſig allra manna ſynda ſekt og ſtraff, og ſvo lokſins á ſínu 34da ári, med ſinni bitru pínu og dauda á kroſſinum, verid, ſem eitt Guds lamb, fórnfærdur fyrir allrar veraldarinnar ſyndir, aldeilis ſamhljóda því, ſem af hans himneſka fodur hefdi ádur til forna ákvardad verid, til fridþægíngar fyrir mannkynid; ſvo ad hvor og einn, ſem nú á hann trydi, og tæki ad ſér hans forþénuſtu, kynni og ſkyldi eylífliga ſaluhólpinn

verda. Ennframar sögdu christnu börnin, ad vor Herra Jesús elskadi allar manneskjur, serdeilis börnin, og svo líka Gydinga börnin. Þaug gjördu ogsvo opt bæn sína til samans, ásamt Gydinga börnunum, og lásu fyrir þeim: Fadir vor, adra grein Trúarjátníngarinnar, um endurlausnina, og margar Ritníngargreinir. Gydínga börnin tóku mikid vel eptir þessu öllu saman, og lærdu þetta af hinum utanbókar. Nú af því þaug heyrdu svo opt, ad Jesús hefdi endurleyst menn, og vildi líka af nád sinni og kjærleika gjöra alla sáluhólpna, sem og einnig börnin, þá verkadi heil. Andi, í þessara þriggja stúlkna hjörtum, svo inniliga laungun eptir Drottni Jesú Christo og hans nád, ad þær ásettu sér, ad láta skýra sig, og verda fullkomliga Christnar. Í þessum tilgángi fóru þær til Mag. Kahmans, Prests vid Maríu Kyrkju í Berlín, til þess ad géfa honum þetta sitt áform til kynna. Sú eldsta géck þá fram fyrir Prestinn, og sagdi: „Hér kém eg nú, kjæri Herra! med mínum tveimur systrum, og bidjum audmjúkliga, ad þér viljid giöra svo vel, ad taka ockur í ydar umsjón. Vid viljum verda Christnar, uppá þad vid ogsvo feíngid gétum hlutdeild í Jesú af Nazareth, hvor ad er sannur Gud og hefur á krossinum látid líf sitt fyrir allar manneskjur, og þessvegna líka fyrir ockur vesælings börnin. Eíngin

hlutur þvíngar ockur til þessa, nema alleinasta kjærleikinn til þess krossfesta Jesú, og þennan kjærleika til hans kunnum vid ei leingur ad dylja, þessvegna bidjum vid ydur, ad þér kénnid í brjósti um ockur vesælíngana." Þegar Presturinn heyrdi þetta, héldt hann ad börnin hefdu eitthvad misbrotid heima, og kvidu þessvegna fyrir straffi. Hann áminnti þaug þarfyrir mikid vingjarnliga, ad þaug skyldu fara heim aptur, og hegda sér eins og velörtud börn vid foreldra sína, samhljódandi Guds skipun í lögmálinu. Þegar börnin heyrdu þad, settu þaug sig öll þrjú á kné fyrir Prestinum, og bádu hann í einu hljódi, ad hann, fyrir Jesú Christi sakir, ecki mætti skúfa þeim frá sér, þared alls einginn hlutur í öllum heimi hefdi þvíngad þaug til ad koma til hans, nema sá stóri Kjærleiki til Drottins Jesu, sem brynni í hjörtum þeirra.

Þaug sögdust hafa fast áſett sér, heldur ad láta deyda sig, enn yfirgéfa Jesúm, sem á krossinum hefdi fyrir sig fridþægt. Hans eigindómur kvádust þær vera vilja, hvad sem þessvegna yfir sig dyndi; þad mætti vera hvad þad vera vildi. Svo lágu þessar 3 barnakyndur þar á knjánum fyrir Prestinum, og med heitum tárum bádu hann: „kénnid í brjósti um ockar aumingjana! vid viljum einasta fá ad trúa á

Jesúm Christ! æ vísid ockur ecki í burtu frá ydur! vid yfirgéfum ydur ecki, heldur bidjum inniliga: hjálpid ockur til þess, ad vid, fyrir þá heil. skyrn, fáum ad verda hluttakandi í Jesú blódugu forþénustu!" Prestirinn stód nú og horfdi á börnin, med stærstu Forundran yfir þeirra hjartanligu girnd eptir nád Guds í Christo, og hvorsu þaug, af inniligustu elsku til hans, vildu afneita öllu í veröldinni, ef þaug adeins feingju, hans vegna, áunnid sáluhjálpina. Þaug héldu nú svoleingi áfram ad sárbæna Prestinn Kahmann, ad hann loksins vard ad lofa þeim því, ad hann skyldi taka þaug til sín. Hvorsvegna hann tók þaug þá í sitt hús, þó med háyfirvaldsins leyfi. Þegar foreldrarnir skommu þar eptir, feingu vitneskju hér um, koma þeir til Prestsins, til þess ad fá aptur börn sín. En þetta gat hann nú ecki af eiginn mindugleika leyst, án þess fyrirfram ad fá til þess kóngliga skipun. Þareptir tilsetti Kóngurinn nefnd manna af 4. prestum, hvorra 2 vóru Reformeradra en 2 Lúthersskra trúarbragda. Þessir áttu ad ransaka málid þad allranákvæmligasta, og álykta sídan um þad: hvort madur, móti Foreldranna vilja mætti, og án þess ad kreinkja þann rétt, sem Foreldrar hafa yfir hörnum sínum, eptir náttúrulögunum, gjæti tekid börnin í sína umsjón, og látid uppfræda þaug í Christnum lærdómi, til þess ad þaug

fyrir stjórnina tekist gjætu í samfèlag christiligrar Kyrkju. Dagurinn var tilsettur, á hvorjum bornin, í nálægd sinna Foreldra, skyldu yfirheyrast af þeim 4 Prestum. Hvort eitt barnid var fyrir sig einstakt framkallad og adspurt: hvorsvegna þad hefdi farid í burtu frá Foreldrum sínum, og hvort þad vildi nú fara heim til þeirra aptur? Hvartil sèrhvort og eitt þeirra fyrir sig, med stærstu hjartans hrærìngu, svaradi: „eingin Manneskja hefur talid ockur til þess, ad fara frá foreldrum ockar, og einginn hlutur í allri veröldu hefur komid ockur til ad gánga þetta fótmál, nema alleinasta elskan til Jesúm af Nazareth, hvorr ad er sannur Gud og madur, dáinn á krossinum fyrir veraldarinnar syndir, og fyrir hvors sakir einúngis vid gétum sáluhólpnar ordid.“ Þará eptir lásu þaug Fadir vor, adra grein trúarjátníngarinnar og nockrar Ritníngar greinir, sem þaug lærdt höfdu af christnu börnunum. Sèr til stærstu forundrunar heyrdi nefndin uppá med hvílíkri gledi og djörfúngu þessi Gydínga born töludu um vorn Herra Jesúm og hans kjærleika. En til þess ad reyna enn nú betur elsku þeirra til hans, sögdu þeir vid þaug: ef þid viljid nú verda Christin, þá verdur yckur útskúfad af yckar Foreldrum; þá hljótid þid ad þola þúngt og strángt erfidi; þid verdid hatadar af öllum mönnum;

einginn vill hafa umgeingni med yckur; í fám ordum: allt hvad neyd og hörmúng heitir liggur þá fyrir yckur, og þid meigid láta yckur lynda ad verda forsmádar af hvörjum manni. Hér til svörudu börnin: „vid viljum gjarnan erfida þar til blódid spríngur undan nöglum ockar, ef vid ad eins fáum ad verda Frelsarans börn. Menn meiga forakta ockur og spotta í heiminum svo sem þeir vilja, um þad kjærum vid ockur ecki. Vid verdum samt ecki til smánar í himnaríki; ef vid adeins fáum ad vera hjá vorum kjæra Herra Jesú Christo, þá viljum vid gjarnan lída alla hluti."

Eptir þetta fóru menn ad reyna til, med fögrum lofunum ad snúa börnunum frá sínum ásetníngi. Men bádu þaug med ofurgódu, ad fara heimaptur med foreldrum sínum, lofudu þeim allrahanda fallegum klædum; já, ad þaug skyldu fá allt hvad þaug girntust, ef þaug vildu hlýda þessu. En börnin svörudu: „hvad hjálpa ockur þaug fögru klædi, og hvad gagnar ockur allt annad fallegt í þessum heimi? Heimurinn hlýtur þó um sídir ad forgánga; en vid viljum verda Guds börn og erfíngjar sáluhjálparinnar. Í himnaríki fáum vid betri skrúda og allt fallígra enn hvad hér í heimi hugsast kann fagurt og prýdiligt. Til Foreldra ockar förum vid ecki

aptur, þvi vid viljum verda Christnar, til þess vid gétum ordid sáluhólpnar fyrir Jesúm, sem á krossinum dó fyrir syndirnar, og nú vill alla menn sáluhólpna gjora.“ Foreldrarnir, sem voru assidis hér í plátsi, utan til vid þad hvar Nefndin sat, hosdu nú heyrdt á alla yfirheyrsluna og feingu sídan ad innkoma í þad sama pláts, hvar bórnin voru. Þeir fodmudu nú ad sér born sín, og bádu þaug, med morgum tárum, ad fara med sér heim aptur. En bornin svorudu: „aldrei framar, medan vid lifum; vid viljum heldur lída allt hvad hormúng kann ad nefnast, enn ad vid skulum yfirgésa vorn kjæra herra Jesúm og afneita honum. Foreldrarnir féllu þá nidur fyrir Bornunum, kystu þaug, og sárbændu, med upplyptum hondum til himins, ad fara med sér og fylgja sér heim. Þeir vitnudu til Guds, med þeim átakanligustu ordum, ad þeir, svosem Foreldrar þeirra, elskudu þaug meira enn nockurn annan hlut í heiminum. Þeir spurdu þaug undir eins: „hvornig gétid þid, kjæru born! verid svo óvíkjanlig, og lokad yckar hjortum svo fast aptur, ad yckar foreldra bænir og tár skulu eckert á yckur vinna? æ kjærustu born! kénnid í brjosti um ockur Foreldra yckar, fyrir þá hjartans kvol, sem vid nú lída meigum yckar vegna! æ umbreytid nú yckar áformi, verdid ecki Christin, látid

það vera að trúá á Jesúm! Af þessu yfir máta þrærandi tali flutu börnin í tárum, en svoruðu þó:" að eylífu skulum vér aldrei ydrast þessa ockar ásetníngs, að vilja verða sáluhjálpnar fyrir Jesú sakir. Hann elskum við nú yfir alla hluti fram í veröldunni; já mejr enn ockar Foreldra; allareiðu hösum við géfið honum ockar hjörtu, og alla ockar lífdaga skal hann vera það einasta augnamið ockar elsku.

Þið eruð nú ecki framar ockar foreldrar, svo leingi þið viljið vera Gydíngar og Jesú óvinir. En ef þið viljið ogsvo taka það áform að verða Christin, og trúa á ockar allrakjærasta Frelsara — þann fyrir alla syndara krossfesta Jesúm — þá skúlum við allar þrjár fara heim til yckar aptur, og vera hjá yckur, og við skulum svo öll til samans elska vorn kjæra Herra Jesúm og tilbiðja hann. En ef þið viljið það ecki gjöra, sögðu börnin, þá gétum við ecki framar álitið ockur fyrir yckar börn, heldur verðum við að vera aðskilin æfinlega. Við umbreytum aldrei ockar ásetníngi, yckar bænir og tár verka eckert hjá ockur, í því tilliti.

Svoleiðis grétu þá bæði foreldrarnir og börnin hástöfum, midt í því þeir og þaug lágu hvört í kríngum annað á kjáuum, svo allir áhorfendur nærstum því flutu í tárum, við þetta

hrærandi sjónarspil. Módirin, sem stakliga elskadi þá adra dóttur sína, féll um háls á barninu, og setti því fyrir sjónir sinn módurliga hjartgróna kjærleika til þess, og það med vidkvæmustu ordatiltækjum og heitum tárum, svo þeir sem nálægir voru gátu ecki, án þess inniliga ad hræraſt, heyrdt á, med hvørsu sárri vidkvæmni, ad módurinn bad barn sitt ad fara med sér, hvørt þó, engu ad sídur, var óvíkjanligt fra sínum ásetníngi. Þar eptir snéri hún sér til Prestanna, sem voru í Nefndinni, og setti þeim á eptirtakanligasta hátt fyrir sjónir, ad þeir hlytu ad vísa børnunum frá sér, og telja þaug til ad fara heim aptur med Foreldrum sínum. Prestarnir gjørdu nú þessvegna sína ýtrustu tilraun, og brúkudu hjarta hrærandi bænir og áminníngar vid børnin, samt hétu þeim allrahanda gjøfum, ef þaug vildu nú ráda það af, ad fara heim aptur med foreldrum sínum. Þeir líka létust eins og þeir af alvøru vildu vísa børnunum burtu frá sér, og ecki taka þaug ad sér til uppfrædíngar í christiligum lærdómi, heldur ad þaug hlytu endiliga ad fara heim, og vera hjá foreldrum sínum. Þar til svaradi þá sú onnur dótturin mikid frjálsliga: „já, módir mín, sagdi hún, eg vil fara med ydur, svo framt þér áformid ad verda christin; þá skulud þér vera mér elskulig módir, og eg skal vera ydar

blódin dóttir; en ef þeir viljid ecki Christin verda, og trúa á Drottinn Jesum Christ, þá fer eg aldrei med ydur framar." Lokfius tóku oll bornin þrjú í einu ad spyrja sína Foreldra: „viljid þid, í Jesú Christi nafni, ecki ráda þad af, ad verda christin, þvi þá viljum vid gjarnan lída alla hluti med yckur, hvad sem yfir ockur kann ad koma? Vid umbreytum aldrei þeim ockar ásetníngi, ad vilja vera hjá Jesú, sem á krossinum dó fyrir synduga menn, og vill frelsa alla og sáluhólpna gjora, án þess ad fara í nockurn mannjofnud, hvor sem í hlut á. Vid hofum ásett ockur med gledi og þú:undfoldu þacklæti, ad taka Jesú kross uppá ockur, og fylgja honum eptir; og þó vid verdum settar á spinnhúsid fyrir þad, þá forum vid þángad med gledi; alleinasta ef vid fáum ad verda skýrdar, þá viljum vid gjarnan erfida undir daudann." Sú ýngsta stúlkan sagdi: já þó eg fái ècker ad eta, heldur hljóti ad deya af húngri, þá skeyti eg þar ecki um; og er undirbúinn heldur ad láta hoggva af mér hofudid enn yfirgéfa minn allra kjærasta Frelsara." Prestarnir sogdu þá enn ýtarligar til barnanna: ecki kunuum vid ad taka í móti yckur í vora umsjón, hvort ætlid þid þá ad fara? þid hljótid þá endiliga ad fara heim aptur til yckar foreldra; þid gétid ecki þvíngad neinn Prest til ad taka

yckur til uppfrædingar. Þá svaradi sú 8ta vetra gamla stúlka: „Þid veigrid yckur þó, gódu herrar! vid ad taka á móti mér; en eg verd samt móti tekin af mínum allrakjærasta Jesú, sem á krossinum dó fyrir mig, vesæla sképnu. O hann medtekur mig í sinn kjærleiks fadm, sleppir mér aldrei ad eylífu, því hann er einn óvidjafnanligur barna vinur; eg elska hann af hjarta, og þessi kjærleikur í mér kann aldrei ad útslockvast." Þar eptir sögdu öll börnin líka sem í einu hljódi: „Jesús, sem dó á krossinum skal ad eylífu vera vor eingasti og kjærasti Fésjódur, sem vid aldrei viljum yfirgéfa; og þid, gódu Herrar! gétid vel fyrir Jesú Christi sakir, sýndt ockur þann kjærleika, og leyft, ad vid meigum verda uppfræddar í Christindóminum." Nu féllu þaug á kné fyrir Prestunum, kystu bædi hendur þeirra og fætur, aflögdu sídan, med tárafullum augum, ennuú einusinni sína trúarjátníngu, í sinna foreldra nærveru, og játudu enn á ný ad einginn hlutur, utan einúngis kjærleikinn til Jesum, hefdi komid sér til ad yfirgéfa allt, og þar á ofan foreldra sína; en Jesúm þann krossfesta sögdust þær aldrei kunna ad yfirgéfa. Af þessum barnanna stadfasta og hreina kjærleika til Jesúm, settust allir nærverandi, jafnvel og svo Prestarnir sjálfir, í mikla hræríngu og táraflód. Menn féllu í furdu yfir,

hvörsu einfaldliga, tilgjörðarlaust, og með hvílíkri djörfúngu og samhljóðun, að þessi Gydíngabörn viðurkéndu Drottinn Jesúm, og hans sáluhjálpliga Sannleika.

Foreldrarnir, sem við allt þetta nærstaddir vóru, beiddust nú, að Nefndin vildi hætta nockra stund, að tala við börnin, en leyfðu sér nú einúngis einn að fá að tala við þaug afsíðis. Beiðni þeirra var samþyckt, og nú tóku þeir börnin með sér, í eitt afsíðis herbergi þar inni. Hér endurnýuðu nú foreldrarnir, heilan tíma, sínar bænir til barnanna, og það með hinum átakanligustu og meiníngarfylstu orðum, með beiskustu tárum, elskufylstu faðmlögum, viðkvæmustu útmálunum og dýrmætustu lofunum, ef þaug létu nú yfirtala sig til, að fara aptur heim með sér. En allar Foreldranna bænir og tár voru til einskis. Eingin hlutur megnaði að útslockva í hjörtum þeirra þann brennandi kjærleika, sem þaug höfðu til Drottins Jesú.

Loksins gáfu öll börnin 3, með fullvissu og grátandi tárum það til kynna, að þaug eingan vondan þela eður óvinsaman hefðu í hjarta sínu til Foreldra sinna, og að einginn hlutur á jörðu, nema einasta þeirra stóra elska til Drottins Jesú, sem á krossinum dáið hefði fyrir þeirra syndir, hafi komið sér til þess tyritækis að skilja við For-

eldra sína; en vid þetta fyrirtæki kváduſt þaug þá vilja ſtødug ſtanda æfinliga. Hérreptir gjørdi Nefndin sína ſídurſtu tilraun, med vidkvæmuſtu ordum, ad yfirtala børnin til ad fara med Foreldrum sínum heim aptur. En børnin gjørdu eins og fyrri, ad þaug féllu á kné fyrir Preſtunum og med heituſtu tárum bádu, ad Foreldrar sínir væru látnir fara einſamlir til sín heim aptur. Þaug løgdu ogſvo dýrt vid ad einginn og eckert í heilu verøldinni hefdi komid ſér til, ad yfirgéfa hús foreldra ſinna, nema einúngis kjærleikurinn til þeſs kroſsfeſta Jeſú, og ad eckert í heiminum ſkyldi megna ad ſkilja ſig fra þeſſum kjærleika. Þaug ſøgdu ogſvo, ad þaug viſſu af fleiri Sydínga børnum, ſem hefdu áſett ſér ad verda Chriſtin; en þaug ſømu børn væru ogſvo nákvæmliga voktud af Foreldrum þeirra og hindrud þar frá, og bættu ſvo þeim ordum vid: „En þú, allrakjæraſti Herra Jeſú, þú hefur viſt ogſvo útſjed þá tíd ſem hentug er fyrir þaug." Þegar menn voru nú ordnir óyggjanliga ſannfærdir um, ad álýktan þeſſara þriggja Syſtra var viſs og óhræranlig, voru þær teknar til uppfrædíngar og foreldrar þeirra ſkildu ſvo vid þær med bútmálanligum harmi. Eptir þetta ákvardadi Nefndin, ad þeſſi 3 Stúlkubørn ſkyldu opinberliga í kyrkjunni uppfrædaſt í Chriſtindóminum, og

var Foreldrum þeirra, svo vel sem fleirum Sydfingum, leyst ad vera þar vid, og framsetja fyrir börnin allar þær ástædur, sem þeir þæktust hafa, til ad hneckja Evangelii Sannleika.

Opt mátti margur Christinn skammast sín, og falla í Forundrun yfir kjærleika barna þessara til Drottins vors Jesú Christs. Þegar þaug, til dæmis, feingu í hendur sínar eitt blad, á hvört ad Jesú nafn var þrykt, (hvört þær, þó enn nú hefdu ecki lærdt ad lesa á bók, þecktu jafnan vel aptur), þá kystu þær altíd med táravotum augum, þetta heil. Nafn, svo mjøg elskudu þær þad; og ef þær sáu einhverja bók, þá flettu þær henni upp, og leitudu ad Jesú Nafni í henni, og nær þær fundu þad, þryctu þær bókinni med bádum höndum ad brjósti sér, og grétu heitum tárum, af brennandi kjærleika til Drottins Jesú. Eptir þad børn þessi hefdu nú af Mag. Kahmann feingid naudsýnliga uppfrædíngu í Christindóminum, og hefdu sídan þann annan Sunnudag eptir Páska, í seinni messu, í nálægd fiøldamikillrar Samkomu, i Maríu kyrkju í Berlín, aflagt sína trúarjátníngu, voru þær af straxnefndum Prestum skýrdar, og gefin eptirfylgjandi Nøfn; sú elsta var nefnd, Constantina Fridrika; sú önnur, Sophia Jóhanna; og sú yngsta, Maria Christina. Sú ýngsta var skýrd fyrst, og hafdi valid sér þetta nafn. Ad

skýrnarverkinu fullendúdu, var giörd fylgjandi bæn: ó Drottinn Jesú! verka þú í állra barna hjörtum, fyrir þinn heil. Anda, med þínu gud-dómliga Ordi, einn hreinan kjærleika til þín og þíns dauda á krossinum, svoad þessi Gydínga born fordæmi: ecki, á sídarsta deigi, märga þá sem Christnir kallast! æ verka hjá oss öllum saman einn rétt brennandi kjærleika til þín; svo hjörtu vor mættu sífeldliga, Herra Jesú! vera sameinud bædi í tíma og eilífd! Amen!

Þetta merkiliga tilfelli skédi í Berlín á fyrsta ríkisstjórnar árum Kóngs Fridriks Vilhjálms þess ita, og er ordrétt útdreigid af þarveranda Kyrkjurádar-halds bókum og Skjölum, sem geymast undir yfirvaldsins tilsjón. O ad þessi frásaga, um þeirra þriggja Ísraels dætra reynda kjærleika til þess krossfesta Jesú gjæti gjordt kroptuga og stadfasta verkun, í allra þeirra hjörtum, sem hana heyra edur lesa, en einkum Christinna Foreldra og Kénnenda! O þér kjæru Foreldrar! gjörid born ydar snemma kunnug Jesú og hans sálubjálpliga Evangelio! Og þér kénnendur og úngdóms uppfrædendur! verid ei kaldsinnadir í ydar verki! upphvetjid bornin og þá ýngri snemma til ad géfa hjarta sitt hönum, er svo vingjarnliga útbreidir sínar héndur og hrópar: leyfid bornunum til mín ad koma, og

bannid þeim þad ecki, því þvílíkra er himnaríki! Verid útvalin verkfæri í Guds hendi, ad leida þá ómyndugu til lifandi trúar á Jesum, og til þess ad géta höndlad hann, svo sem hann er oss af Gudi géfinn til vísdóms, rettlætis, til helgunar og til endurlausnar. Styrkid sídan þvílíkar áminningar med christiligu eptirdæmi frá ydar sídu, svo ad börnin géti séd þad, ad þér siálfir trúid á heimsins Frelsara; hvar af skióta mun mikil blessan! Og þér elskuligu börn og ýngra Folk! látid þá áðursögdu Sögu gánga ydur inniliga til hjarta, og ransakid ydur siálf, hvört þér hafid nockra líkíngu af sinnislagi áminstra Ísraels dætra, í tilliti kiærleikans til þess krossfesta Jesú. Þad gétid þér vitad af því, ef þér fáid ei af ydur ad styggia hann á nockurn hátt vísvitanda, hvad sem þad kostar, og fordíst því allan vondan afvegaleidandi Selskap, alla óhlýdni, léttúd og elsku til heims þessa og hans athæfis, því annars setjid þér ydur í þá hrædiligu hættu, ad fyrirfarast med heiminum. Bidjid Gud óaflátanliga, ad hann fyrir sinn heil. Anda, skapi í ydur nýtt hjartalag, og haldi því vid hjá ydur, til hins sídarsta. O hvörsu farsæl verdid þid — samt allir eldri sem ýngri — er þannig breyta, og í þeirri breytni allt til daudans stöd-

ugir standa; þeirra Fullsæla verdur óvgglanlig i eilífdini!

Þessi var þá hin fyrri Sagan, er eg hét fyrir sjónir ad leida. Hin Sídari er þessi:

Þegar eg reisti (seigir sá sem søgu þessa í fyrstu skrifad hefur) í gégnum Landsplats þad í America, sem Virginia heitir, heyrdi eg einn aldradan æruverdan Prest skýra frá þeirri ysrid merkiligu, en þó stuttu frásøgu, af Gydingi nockrum, sem eptirfylgir. Presturinn kvadst eittsinn prédikad hafa fyrir stórum og eptirtecktafullum Søfnudi, og þá hefdi þar, ásamt ødrum, komid inní kyrkjuna madur, sem vakid hefdi sérliga athugasemi sína, þar sér, af øllu hans útliti, ei hefdi gétad annad sýnst, enn hann væri eirm Gydíngur. Hann var velklæddur og allt hans vidmót æruverdugt, þó svo, ad þad sýndist, sem í hjarta hans hefdi verd adsetur þúngbærrar gremju. Hann setti sig nidur í kyrkjunni, og hlýddi á kénninguna med Gaumgjæfni, og midt í því dundu opt tár af augum hans. Ad Gudsþjónustunni endadri qvadst Presturinn ei hafa gétad haldid sér frá, ad seigja til hans: Fer eg villt í því, minn Herra! ad eg meina eg eigi tal vid einn Abrahams son, þar sem þér erud? Ei farid þér villt í því, svaradi hann. En hvørnig kémur þad þá til, spurdi eg, ad eg sæ ad sjá einn Gyd-

kng í sosnudi Christinna? Par uppá svaradi hann mér med eptirfylgjandi Frásøgu af sjálfum sér. „Par bjó í Stadnum Lundûn á Englandi Gydingur nockur, hvørs nafn ad var Chanania. Pessi madur var þar í mikid gódum metum, því hann var álitinn hygginn og rádvandur; og þaradanki var hann velríkur. Hann átti konu og eina Dóttur barna; en svo bar til, ad kona hans tók sótt og andadist. Hún var sidan greftrud og hann reisti minnisvarda ad grøf hennar. Nú gat hann ei leingur yndi fest í borginni Lundún, þar fyrir tók hann sig upp og flutti med dóttur sinni, hvøred Rachel hét, á skipi, ásamt øllu sínu gótsi til Americu, sem liggur fyrir vestan hid stóra haf; og héldt svo áfram reisu sinni þaruppí Landid, þángad til hann kom á Sléttlendi nockurt, er liggur hjá fljóti því, er Ohio heitir. Var pláts þad vøkvafullt og ávaxtarsamt, sem Guds aldingardur. Keypti hann sér þar hús, og settist þar ad. Var þá Dóttir hans 17 vetra ad aldri. Hún var mær mikid føgur ad líkama bygglngu, og af skaparanum gjædd ypparligustu Sálargáfum, svo hún bar af øllum sér jafnaldra meyum. Fødur hennar þókti og mikid vænt um hana, og sparadi eingan kostnad til hentar uppmentunar. Hún lærdi ýms túngumál ad lesa og tala; og í Guds ordi, eptir løg-

málinu, vard hún mikid vel ad sér, því Fadir hennar var á sinn hátt trúmadur mikill, eptir Móýsis og Spámannanna kénníngum.

Hann var hugginn ad aldri en hún hans einasta barn, þar fyrir unti hann henni mikid, og hafdi af henni sitt einasta eptirlæti í heiminum. Nu lidu enn ædi lángir tímar eptir þetta, þar til þessi hans dóttir vard mikid sjúk. Hennar ásynd fölnadi, rósirnar í hennar kinnum bliknudu, og hennar kraptar þverrudu, svo öllum sýndist þad vid bord liggja, ad hún gánga mundi veg alls holds. Fadir hennar sparadi þó eingan tilkostnad ad leita henni lækninga, en hvorki konst né kjærleiki mannanna hafdi neitt ad segja. Fadir hennar stód med sárri hrygd yfir sæng sinnar elskudu dóttur, svo hjarta hans ætladi rétt ad bresta af harmi. Hann reyndi opt til ad tala vid hana, en gat þad ecki nema med tárum því daudans eingill herjadi á hana sterkliga, og bönd grafarinnar þreyngdu ad henni. Og þad skédi eittsinn þegar Chanania reikadi, fullur sorgar þánka, úti í sinum aldingardi, og vætti sin Skref med tárum, ad þá sendi dóttir hans hastarliga eptir hönum, og lét segja hönum, ad hún væri adfram komin, og ad hún girntist ad sjá hann og kvedja, ódur hún skildi vid. Hann flýtti sér þá heim til húsins, og sagdi vid sjálf-

an sig: mun þá öll lífs von vera úti fyrir henni? Og, ef hún deyr, hvörs hefur hún þá að vænta í ödrum heimi? Hvörnig mun manneskja géta fyrir Gudi réttlát ordið? Hann grét og æpti: æ mín dóttir Rachel, min dóttir! mitt kjæra barn! æ að minn daudi hefdi gétað frelsað þitt Líf! En hans trúarbrögd gáfu honum nú litla huggun. En sem hann kominn var rétt inu að sæng hennar, útrétti hún sína hönd, og tók með henni í hönd síns Födurs, og taladi til hans með allri þeirri alvöru, sem hennar, að þrotum komnu, kraptar leyfdu, seigjandi: elskardú mig, Fadir minn! Hann svaradi: þú veist það, barn, að eg elska þig, og þú ert mér dýrmætari, enn allt hvað í veröldunni er. Hún spurdi hann þá aptur í annað sinn og sagdi: æ minn Fadir! elskar þú mig þá í sannleika? Hann svaradi: því spyrdú mig að þessu, barn! því eyrkurdú á minn harm með þessu; hefi eg ecki sýndt þér margar rökſemdir til minnar elsku til þín? þú veist hvörsu mín sála er bundin við þína sálu. En Stúlkan héldt samt áfram að spyrja í þridja sinn: Minn Fadir! æ minn Fadir! elskar þú mig þá virkiliga? Nú gat Fadir hennar, fyrir sárum harmsþúnga, ecki svarað henni einu ordi. En þá sagdi dótturin: já eg veit, minn Fadir! eg veit þú elskar mig, og hefur altíd elskað. Þú

hefur verid mér bezti Fadir, og eg elska þig líka hjartanliga. Viltú nú gjöra eina bón mína fyrir mig, ádur enn eg dey! æ neitadu mér ecki, bezti Fadir, um þá bón; lát hana ei vera til forgéfins af þinni deyandi dóttur! Fadirinn svaradi þá: svo sannarliga sem Jehóva lifir og þín sála lifir, skal eg gjöra allt fyrir þig, sem þú bidur mig, og þó þad kosti þann sídarsta skilding í eigu minni, þá skal eg ecki synja þér þess! Jehóva er mitt vitni! ségdu mér hvad þad er! þá opnadi Dóttir hans sinn munn og sagdi: æ elskuligasti Fadir! þad sem eg vil nú bidja þig um, er þad: taladú nú aldrei framar móti Jesú af Nazareth! þegar Fadir hennar Chanania heyrdi þessi ord, vard hann ordlaus, túngan loddi vid hans góm, og hans hjarta vard fullt af forundrun. Þá héldt Stúlkan áfram ad tala og sagdi: þú veizt, ad eg veit mikid lítid um þennan Jesúm ad seigja, því mér hefur aldrei verid kénnt neitt um hann, og Messiæ lögmál er mér ókunnugt; svo eg kann ecki adra þarum ad uppfræda; en þetta veit eg nú samt, ad hann er sá rétti Frelsari, og ad hann hefur makt til ad hrífa mína sálu úr valdi synda minna, já úr Satans og þess ógnarliga helvítis valdi. Ad vísu kann ecki Frelsariun ad sjást med líkamligum augum, en hann hefur þó á þessum Stad opinberad sig fyrir sálu minni, í mínum sjúkdómi, og hann hefur sagt til min: óttast þú ecki, þínar syndir eru þér fyrirgéfnar! Og eg hefi í sannleika fundid frid vid hann, hann hefur frelsad sálu mína. Jafnvel þó eg ecki hafi elskad hann ádur, veit eg þó fyrir víst, ad eg vissuliga man til hans fara, og fá ad vera hjá honum alla tíma, um alla eilífd. Og nú, minn kjæri Fadir! synjadu mér ecki bónar minnar! haltú nú einganveigini, áfram leingur ad tala spott i gégn Jesú af Nazareth! Eg særi þig: kauptú þér nú bók

þess nýa Sáttmála, því í henni finnast øll Messiæ orð og verk uppfrifuð; eg vil biðja af øllu hjarta til Drottins, að hann géfi þér sanna þeckíngu þessa hans Smurða; og eptir minn dauða, þegar eg er ecki leíngur til, þá snúðu til hans, minn kjæri Faðir! þeirri elsku, sem þú bíngað til hesur auðsýndt mér. Eptir þessa sterku Sinnis hræríngu og áreynslu kraptanna varð Stúlkan svo yfirkomin, að hún féll í aungvit, en Faðir hennar géck frá henni útúr húsinu, fullur af innviliguſtu Sálarhrygð; en áður heldurenn hann gat aptur innkomið, var Sála hans Dóttur uppstígin til síns Frelsaru, hvorn hún, með allri sinni litlu þeckíngu, hafði svo hjartanliga elskað. Chanania sorgaði nú yfir sinnar Dóttur moldum með sárasta harmi og gróf lík hennar þar í nálægð við hús sitt; en eptir það hann hafði því lokið, flýtti hann sér og keypti eitt nýtt Testament, og ransakaði það og las bæði dag og nótt. Og sjá, við þess lesníngu fann hann, að øll Christi Orð, samhljóðuðu nákvæmliga orðum løgmálsins, Spámannanna og Ritnínganna, og eingin hulda lá nú yfir þessu framar fyrir honum; því sá heil. Andi upplýsti hans myrkur, og hann trúði nú, með fullkominni vissu: að sá Messías um hvorn allir spámenn spáð høfðu, væri sannarliga kominn, og að þessi væri Jesús af Nazareth." Svo framgéck þá þessi maður Chanania æ síðan í ótta Drottins, og inn til þessa dags má telja hann einn af þeim auðmjúku og hógværu Jesú eptirfylgjurum, og hans sønnu Lærisveinum.

---

Þessar eru nû þær tvær merkiligu Søgur, er eg hét frá að seigja, hvorra hin fyrri er, við regluliga réttar ransókn, sønnuð, eins og sagan um þann blinda, er Jesús læknaði, (sjá Joh. 9),

svo vantrúin, sem ei þvílíku trúa vill (af því það er svo mótstríðandi hennar Náttúru), má hér stínga plyu sínni í seck, eins og þeir fordum, er Jesú kraptaverk vefeingja vildu. En að ecki einasta Unglingar af þessari þjóð, heldur og svo fullordnir — og þar á ofan bólærdir — menn, hafi til Jesú trúarbragða í sannleika umvendst, eru órækustu røksemdir til. Svo var staklig umvendan Gydínga lærimeistarans Josúa Eschel á nærstlidinni öldu, sem í mørg ár þar eptir var evangeliskur Prestur, undir Nafninu Fridrik Augusti; hvørs Umvendan skédi við nákvæma ransókn Spádómanna um Messiam, svo hans stóra, Skynsemi hlaut naudug viljug að yfirgéfa vantrúarinnar herbúdir, og gánga í lid med trúarinnar børnum. Sama má seigja um þess Pólska lærda Gydíngs Benjamíns N. Salómons umvendun, sem skédi á yfirstandandi øldu, sanit eins annars Þýdsks, er Frey nefnist, hvørjir bádir hafa, eins og Paulus fordum, géfid sig út til að verda Christs Postular og reyna til að umvenda brædrum sínum; ýmsa fleiri mætti þessum líka telja. J No. 42 bl. s. 43 til 50 er ádur gétid um umvendun eins ríks Gydíngs á eyunni Maltá, fyrir tilstudlun eins Læknis frá þjód þeirri, sem helst hefur frumkvødull verid þeirrar lofsverdustu vidleitni, að verka til Jsraels barna umvendunar; því í Lundún á Englandi, er snemma á þessari øldu stofnad eitt stórt Félag, til þessa augnamids; sem mørg smærri hjálpar Féløg hefur þar i Landinu. Þar er kyrkja bygd i hvørri prédikad er, sérdeilis fyrir Gydíngum, einkum þeim er til Christiligrar trúar snúist hafa. Þar eru skólar stiptadir til að uppiræda í þeim Gydínga børn í christiligri trú, þó med Foreldranna Samþycki, allt uppá Félagsins kostnad. Vída eru haldnir opinberir Fyrirlestrar fyrir Gydíngum, til að sanna þeim, ad Messias sé kominn, og hinn sami

sé Jesús af Nazareth. Nýa testamentid hefur verid prentad þar á Ebresku, og á þýdsku med ebresku letri, handa lærdum og ólærdum Gydíngum, og margar bækur smærri og stærri samanskrifadar og útbreiddar, til ad sannfæra Gydínga um þad sama. Nefnd manna er þar og tilsett til ad hjálpa Fátækum af Gydínga Fólki. Hvad mikill kostnadur til alls þessa gángi géta allir nærri. Árid 1821 var hann, adeins eitt ár, uppá meir enn 47 þúsund D.speciur; en sannur kjærleiki til Guds og manna telur eingan kostnad eptir sér. Allir þessir atburdir géta ei annad enn uppvakid marga af Gydínga Fólki til eptirþánka, einkum þar þeir sjá, ad sá sanni Christi Lærdómur er sá rétti brunnur og Skóli kjærleikans, sem hefur allra manneskja velferd fyrir augnamid. Já þad má med sanni seigja: ad í ýmsum ríkjum, sérdeilis hér í Evrópu, sé uppvöknud medal Gydínga **alvarlig laungun eptir ad eignast þad nýa Testamenti.** Í Preussen hefur merkilig umbreytíng skéd medal Gydínganna: þeir hafa þar skúfad sínni gömlu Talmud (einni bók sem innihéldur tómar mannasetníngar í stadinn fyrir Guds ord); þeir hafa og lagad sína opinberu Guds Þjónustugjörd skyusamligar enn ádur, og géfa nú börnum sínum regluligt uppheldi, sem ádur var hrædiliga vanrækt, í tilliti uppfrædíngarinnar. Þó er umbreytíngin medal þeirra í Eolen enn nú þersýniligri. Þar hafa Gydíngar aflagt sína gömlu hleypidóma móti Jesú nafni (sem ádur lokudu hreint hjörtum þeirra fyrir allri Christindómsins ransókn), svo þeir eru nú ecki alleina fáanligir til ad tala um Christlin trúarbrögd, heldur jafnvel auglýsa laungun til þess. Einn engelskur Missioneri skrifar svoleidis þarum: „þad var sanngledilígt fyrir mig, ad merkja þá girnd, sem Gydíngar í Polen sýndu eptir því ad eignast

Nyatestamentid, og verda kunnugir þess innihaldi. Nær eg gétid hafdi einhvørjum Gydíngi eitt Nýatestament stykkust ókat ad hønum á gøtunni medan hann las fyrir þeim nockud úr þessari heil. bók. Þeir komu og til mín, til ad bidja mig um utskýríngu meiníngarinnar í ýmsum greinum þess, edur og til ad láta mig heyra, hvad þeir þæktust móti því geta haft, og opt vyrdtist mér sem þeir hefdu ánægju af því, sem eg sagdi þeim frá Jesú og hans athøfnum. Í einum stad søfnudust 200 lærdir Gydíngar saman, til ad heyra mig tala um Christindóminn, og þad var stærsta gledi, ad fá þessa tilheyrendur, fyrir hvad eg þackadi Gudi, og eg styrktist i anda, framar allri vonu til ad tala fyrir þeim, út af Christo. Já, þessi sjón kveikti stakliga í hjarta mínu þær gledíligu Vonir, ad tíd sú væri i námd, þá Drottinn vill miskuna sig yfir Zion, og aptur útvelja Jerúsalem, sér til dýrdar, hér á jørdunni."

Þetta allt má þá álita sem einn morgunroda til þess dyrdliga dags, á hvørjum þar skal af Gydíngum og heidíngjum verda ein Þjód undir einum hyrdir; og þessvegna er þad ecki einúngis í tilliti Gydínga heldur og annara Þjóda, ad þessi von, um Gydínganna Umvendun, er oss svo mikilvæg og gledirík, því á sama tíma, sem þennar er ad vænta, mun Guds ríki útbreida sig til allra jardarinnar endimarka. En vonir þess ar, einkum hvad umvendun Gydínga áhrærir, eru bygdar á fyrirheitum þins Gamla- og Nya-Testamentis. t. d. Jer. 3, 17-18. c. 23, 5-8. Ezech. 37, 21-28. c. 39, 25-29. Hos. 3, 5. Rom. 11. og 2Cor 3, 16. Og hvad Sameiníngu Gydínga og heidingja snertir á Joh. 10, 16. Gbp. 2, 39. Rom 11, 12-15. Ephes 2, 13-14. og vidar.

Til ályktanar vil eg nú enn hér vid bæta,

um umvendun tveggja persóna af Israels kyni, svolátandi;

Gydíngur, Levi ad nafni, átti einn ærligan Födur, og hann bar, svovel sem Fadir hans stóra vyrdíngu fyrir Móysi og Spámönnunum; en illa var hann til frids med þær manna setníngar, sem Talmúdin inniheldur, og hann átti opt tal um þær vid bródur sinn sem somu meiníngar var og hann. Katrín, skyldmenni þessa Levi, var og svo dóttir rádvandra Foreldra, ad sjálfrar benuar sogn. Hún var fyrst í þénustu hjá nockrum Portugisiskum Gydíngum, hvar hún heyrdi fyrst á Nýatestamentid minst, sem bók ecki ómarkverda. Sídan flutist hún med húsbændum sínum til Englands, hvar hún vard kunnug Christnu þjónustufólki, og fékk því æ betra géd á Christindóminum. Af því hún var nú skyld Levi, kom hún opt í húsid til hans; Þar heyrdi hún opt á tal þeirra brædra um Gydingauna setníngar, ok hvorsu þeir voru ei somu meiníngar um þær sem adrir. Samt hneigsladist hún ecki þar á og begdadi sér sjálf eptir sinna Trúarbrædra reglum, sem best hún gat, en lét ecki á sér festa, þó hún sæi þá brædur ecki svo dyggiliga giora þad. Bródir Levis var heilsuveikur, og þurfti opt vid styrkjandi medala. Hann fann nú hvorsu reglur þær, sem í Talmúdinni settar eru sjúkum monnum, voru sér ónógar, og álýktadi því, svovel sem bródir hans, ad þær giætu ei frá Gudi komnar verid! já ad sjálft Móysis kyrkju- og valdstjórnar-lög, hlytu ad hafa sett verid einúngis fyrir þá tíma og stadi, hvar Gydíngar bosdu fordum lifad, nefnil. Canaans land, en ecki verid ætlud fyrir allar aldir og þjódir. Utúr þessu tóku þeir nú ad hugsa um fleira, nefniliga um þad, hvornig þad kjæmi til ad Gydínga þjódin væri útrekin úr Canaans landi, og ad Messias væri ecki enn kominn ad frelsa þá; en gátu aldeilis

ecki látid sér nægja Svar sinna Lærifedra þar uppá.

Nú deydi Brodir Levis í þessari óvissu. En Levi sjálfur vard kunnugur Nýatestamentinu af Læknir þeim, er þénad hafdi bródur hans. Þegar hann og Frændkona hans Katrín lásu nú þessa heil. bók, uppkom hjá þeim stærsta vyrding og elska til Jesu persónu. Levi áleit Jesum fyrir mikinn mann, þar hann vogast hefdi til, ad setja sig opinberliga móti Pharisæurunum, sem spilt hefdu Guds lögmáli med sínum setníngum, sannri trú til skada.

Kátrín áleit Jesum fyrir æruverdasta Sidalærara, einkum fyrir þetta sitt bodord: elskid óvini ydar! Þó efudust þaug enn nú bædi um, ad Jesús væri Messias. Þarfyrir tóku þaug nú ad lesa gamla testamentid líka svo, sem þaug ádur höfdu ei til hlýtar gjördt, og komust því ad raun um, hvorsu bædi testamentin eru samhljóda, og sáu ad þad nyatestament var berssýnilig uppfylling þess gamla. Samt vóru þaug altid efablandin um Frelsarans persónu, einkum af því, ad hann kvartadi yfir því á krossinum, ad Gud hefdi sig yfirgefid, þar þaug álitu þad ómoguligt ad Gud kynni ad yfirgefa Messiam. Þegar þaug nú kvöldust í óvissu þessari, og vissu ecki hvornig þaug skyldu út af henni, tóku þaug bædi áform, ad gánga í christna Kyrkja, og Gud hagadi því svo til, ad þad skédi á Föstudaginn fyrir Páska, þá predikad var út af Christi pínu, og Presturinn hafdi valid sér til ræduefnis þetta ord Christi á Krossinum: Gud minn, Gud minn! hvarfyrir hefur þú yfirgéfid mig! Nú feingu þaug fyrst ad skilja, hvarfyrir Jesús var af Gudi yfirgefinn, nefnliga af því hann hefdi lagt sitt Líf út, til Fórnar fyrir Heimsins syndir. Þessvegna vidurkéndu þaug nú Jesúm Messias ad vera og leitudu uppfrædíngar í Christiligum Lærdómi. Tveir evangelistir Prestar vór-

u þeirra uppfrædendur, og ávöxturinn vard sá, ad þaug aflögdu opinberliga sína trúarjátníngu og voru skýrd, þann 9da Sept. 1799, á hvorn dag ad þá einmidt bar Laufskálabátíd Gydínga. Prestarnir höfdu sýndt þeim ofan á, ad hin christna trú væri í rauninni hin sama sem Abrahams trú, einúngis med þeim mismun, ad Gud hefdi, á Abrahams tímum opinberad sig í fyrirheitum og Spádómum, en nú gjördi hann þad í sínum syni Jesú Christo. Þad gladdi þaug miög þegar þaug heyrdu þad, ad Abrahams Gud væri og svo Gud Christinna, manna; og sá sami sem Gydingar tilbidja. Þegar þaug voru adspurd: hvort þeim ekki væri ógédfeldt ad heyra þad, ad Christnir ættu ogsvo ad trúa á Guds Son og heil. anda? svörudu þaug: ney! því þaug kvádust í gamla testamentinu og svo finna greiniliga minst á Guds son og heil. anda. Og med því þaug aldrei, medan Gydinga trú höfdu haft, höfdu skinheiløg verid né á sitt eigid rettlæti stólandi, voru þaug mikid fús á, ad medtaka þann evangeliska lærdóm, um fyrirgéfníngu syndanna hjá Gudi, út af trúnni, án løgmálsins verka. Þegar einn Gydíngur spurdi Levi ad, eptir þad hann var christinn ordinn: hvort hann væri nú ordinn Gudlaus? svaradi hann: ad nú fyrst trydi hann fast á Abrahams Gud, og þad med Abrahams trú; hann qvadst einúngis yfirgéfid hafa mannanna setníngar. Þegar hann var adspurdur hvort hann notadi sér enn þad minnisteikn Guds tíulaga bodorda (er Zizir kallast), og hvört Gydingar atíd bera á líkama sínum? svaradi hann: ad á medan hann hefdi Gydíngur verid, hefdi hann þessa vidþurft, en sídan hann hefdi Christinn ordid, findi hann af eigin reynslu, uppfylling þessa Guds fyrirheitis: eg vil skrifa mit Løgmál í þeirra hjörtu!